# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

15. árg. WINNIPEG, JÚNÍ 1900. Nr. 4.


## Abide with me

í nýrri íslenzkri þýðing eftir Jón Runólfsson.

1. Ó, vertu hjá mér, herra! Dagr dvín;
það dimmar að. Ó, lít í náð til mín!
Og þegar hvergi lið né líkn finnst hér,
þú, líknin mœddra, vertu þá hjá mér.

2. Hinn stutti dagr lífs míns líðr ótt,
og lán og vegsemd jarðar hverfr skjótt;
allt breytist, rotnar, þreytist, þrotnar hér;
ó, þú, sem aldrei breytist, dvel hjá mér!

3. Ei bið eg að eins augnabliks um sinn,
en umgakkst mig sem lærisveininn þinn
með hvers dags líkn og ást, sem aldrei þver.
Dvel ei um sinn, en, herra, bú hjá mér!

4. Ó, kom þú ei sem kongr veldishár,
en kom með líkn á væng að grœða sár!
Ó, kom og grát þú yfir eymdum hér!
Sem ástvin syndaranna bú hjá mér!

5. Sem barn eg óx í brosi kærleiks þíns,
en brátt eg reis í þverúð hjarta míns
og hófst þér gegn, en þú ei breyttir þér.
Ó, þú, minn Jesús, bú þú æ hjá mér!

6. Eg þarfnast mjög þú sért í náð mér nær.
Hver nema þú við falli hlíft mér fær?
Hver nema þú mér líf og leiðsól er?
Í logni' og stormi, Jesús, bú hjá mér!

7. Með þig við hlið mig ekkert felmtrar fár,
þinn friðr skín mér gegn um hvert mitt tár.
Sjá, dauðans kyngi svelgt í sigr er!
Eg sigra, herra, búir þú hjá mér.

8. Er kvöldar hinnst, þú, Jesús mildi minn,
mér mitt í dauða skín með krossinn þinn!
Sjá, lýsir guðsól, leysast myrkr hér!
Í lífi' og dauða, herra, bú hjá mér!

## Ágrip af sögu „General Councils".

Eftir séra Rúnólf Marteinsson.

(Niðrlag*).

Vér höfum áðr minnzt á tvö af stórmálum þeim, sem *General Council* hefir fjallað um: heiðingja-missíónina á Indlandi og fagrt lúterskt guðsþjónustuform.

Þar fyrir utan eru ýmsar stofnanir og fyrirtœki, sem annaðhvort beinlínis hefir verið komið á fót af *G. C.* eða eru í sambandi við félagið. Meðal þeirra má nefna innflytjandaheimili í New York, kvendjáknastofnanir og tvo prestaskóla, annan í Philadelphia og hinn í Chicago. Félagið gefr nú út eitt blað á ensku máli, er nefnist *The Lutheran*, og er víst óhætt að segja, þegar á allt er litið, að það er hið bezta lúterska kirkjublað, sem birzt hefir á ensku máli í þessari heims-

*) Sjá „Sam." XIV, 8.

álfu. Það fylgir mjög eindregið ákveðinni lúterskri stefnu og dœmir yfir höfuð af skarpskyggni og réttsýni um afstöðu lútersku kirkjunnar í Ameríku og samband hennar við nágrannakirkjudeildirnar.

Fyrir utan sálmabók til notkunar við hinar almennu guðsþjónustur kirkjunnar hefir *G. C.* þegar fyrir löngu gefið út sálmabók til notkunar í sunnudagsskólum. Hún er gefin út bæði með söngnótum og án þeirra. Þessi sunnudagsskólabók hefir fyrir skömmu síðan komið út á ný aukin all-mikið. Í öllum þessum sálmabókum er mjög vandað sálmaval. Þar er að finna frægustu og beztu sálmana, marga hverja, sem til eru á ensku, hvort heldr eru frumsamdir á því máli eða útlagðir, aðallega úr þýzku. Í þessum bókum er þar á móti sneitt hjá öllu hinu lakara, bæði af sálmum og lögum, sem tíðkast að meira eða minna leyti í reformeruðu kirkjunum hér í landi. Það er því óhætt að reiða sig á þessar bœkr ; því þar er ekkert til þess að spilla smekk hinna ungu, hvort sem litið er á það frá bókmenntalegu eða söngfrœðislegu sjónarmiði.

En *General Council* hefir gjört meira fyrir sunnudagsskólann heldr en gefa út sálmabók fyrir hann. Sérstök nefnd er kjörin af félaginu til að gefa út bœkr og blöð í sama tilgangi. Aðal-maðrinn í þeirri nefnd er dr. T. Schmauk í Lebanon, Pennsylvania. Með aðstoð meðnefndarmanna sinna hefir hann á stuttum tíma unnið stórkostlega mikið. Hann hefir gefið út tímarit til útskýringar biblíulexíum þeim, sem valdar eru af nefndinni. Þetta tímarit er ætlað kennurum. Þar fyrir utan eru gefin út blöð, önnur, útskýrandi sömu lexíurnar, ætluð nemendunum. En það er álit þessara manna, að það sé ekki heppilegt, að hafa sömu lexíuna handa öllum skólanum, sömu andlegu fœðuna handa smábörnum og talsvert þroskuðum ungmennum. Það er álit þeirra, að ,,lexíurnar" eigi aðallega að vera handa hinum þroskuðustu ; en áðr en menn geti haft fullt gagn af slíku biblíunámi þurfi maðr talsverðan undirbúning. Slíkan undirbúning lætr nefndin ná yfir sex ára tímabil, frá því börnin byrja að geta lesið. Sex lærdómsbœkr eru gefnar út, og er ætlazt til, að farið sé yfir eina á ári. Hverri bók er skift niðr í lexíur fyrir hvern

sunnudag. Í fyrstu bókinni eru hinar einföldustu sögur úr biblíunni; í hinni annarri yfirgripsmeiri biblíusögur; í hinni þriðju biblíu-landafrœði; í hinni fjórðu æfisögur hinna merkustu manna í biblíunni; í hinni fimmtu kenningar biblíunnar; í hinni sjöttu ýmislegt snertanda hina bókmenntalegu hlið biblíunnar. Með þessu fyrirkomulagi er nemandinn leiddr eðlilega, um leið og hann er að eldast og þroskast, frá hinu auðvelda til hins örðugra, leiddr til þekkingar á ýmsum stigum, sem hvert tekr eðlilega við af öðru. Allt þetta fyrirkomulag er samkvæmt mjög vel staðfestum kennslufrœðislegum grundvallarreglum.

Það er því óhætt að segja, að síðan *General Council* fór fyrir alvöru að sinna sunnudagsskólamálinu hefir mikið verið unnið.

Innan *General Councils* er talsverðr þjóðernislegr mismunr. Þar eru Þjóðverjar, Svíar og innfœddir Ameríkumenn. Af þessu leiðir, að það er margt, sem hin einstöku kirkjufélög geta gjört betr út af fyrir sig en *G. C.* í heild sinni gæti. Til dœmis getr Ágústana-sýnódan sœnska betr stýrt og veitt stuðning sínum eigin sœnsku skólum og sínum sérstöku missíónum heldr en nokkur annar annar gæti. Meðan svo er ástatt verðr aðal-valdið að vera hjá hinum einstöku sýnódum, sem mynda félagsheildina, og *G. C.* þess vegna að vera aðallega ráðstefna, eða ráðleggjandi fundr, sem þessi félög hafa. Og það er einmitt það, sem *G. C.* er.

En ráðstefnur *G. C.s* hafa orðið lútersku kirkjunni í Bandaríkjunum til mikillar blessunar. Brœðr hafa þar mœtt brœðrum og hvorir haft styrk af öðrum og um leið sameiginlega styrkzt í því að reynast lútersku kirkjunni trúir; og ameríkanska þjóðin á fyrir bragðið hœgra með að skilja, hvað lúterska kirkjan er mikið afl í landinu.

---

## Frá Íslandi.

**Eftir séra Jónas A. Sigurðsson.**

X.

Eg kom til Reykjavíkr seint að kvöldi dags, eftir slétta

og stutta sjóleið úr Borgarnesi (eða Brákarpolli eins og kauptúnið var áðr nefnt), með gufubátnum „Reykjavík", fyrir framan Akranes, Hvalfjörð og Kollafjörð. Fjöldi farþegja var með gufubátnum, vafalaust um 300 manns, og er sá gufubátaflutningr hið mesta þarfa-fyrirtœki, eins og til hagar við Ísland. Ekki fór eg í land á Akranesi, en þar þótti mér fagrt til lands að sjá, og þar er ein prýðilegasta kirkja landsins.

Dimmt var orðið, þegar til höfuðstaðarins var komið, og getr því vel verið, að kvöldskuggarnir eða nætrmyrkrið eigi sinn þátt í því, komi einhver skuggahlið eða eitthvert svartsýni fram hjá mér í þessum endrminningum mínum um hinn fyrsta og frægasta bústað á Íslandi, höfuðstaðinn sjálfan.

Eitt hið fyrsta, sem maðr saknar í Reykjavík við slíka aðkomu, eru ljós, góð ljós. Það var dimmt yfir Reykjavík þetta haustkvöld,—enginn stórborgar- eða starfsbragr yfir bœnum, hvað það snerti. Þó var mjög mannmargt við lendingarstaðinn og eðlilega talsvert starf fyrir hendi, þegar slíkr mannfjöldi, eftir íslenzkum mælikvarða, var að lenda. Síðan tók eg einnig eftir því, að það var einmitt seint á kvöldum, sem strætin í Reykjavík fylltust af fólki og veruleg umferð byrjaði í bœnum,—eins og hann skyldi vera höfuðbœr í einhverju heitu landi, þar sem umferð er ill-möguleg sökum hita að deginum. Hér fannst mér þetta ofr lítið undarlegt. En það ætti sannarlega að hvetja menn til að hafa bœinn sem bezt lýstan. Hammerfest, hin nyrzta smáborg Norvegs, er lýst með rafljósum, en það þykir barnaskapr, að hinn mannmargi og að sumu leyti myndarlegi höfuðstaðr Íslands eignist nokkur rafljós. Og þó er það svo auðvelt, ef verkhyggni og vilja skortir þar ekki.

Eg tók mér þetta nærri, því það minnti á margt annað öfugstreymi, margskonar myrkr í þjóðlífi voru.

Ísland er illa lýst af mönnunum, — í öllum skilningi og allsstaðar, í borgum og bœjum, og eg held andlega sem líkamlega. Þar skortir upplýsing, meiri og *betri* ljós, og það er vonandi, að þar „verði ljós". En ekki má því gleyma, að það er sem guð hafi gefið þessu blessaða landi voru og lýðnum

þar þeim mun meira af sínum dýrðarljósum, að því er snertir hina ytri náttúru, og eg vona einnig í einhverjum öðrum skilningi. Og eg vil af öllu hjarta óska, að sú tíð sé í nánd, er menn fara til Íslands til að sjá og kynna sér fleiri ljós en norðrljósin, sem drottinn hefir þar kveikt og menn fá aldrei slökkt,—mörg björt framfaraljós, veruleg rafljós lifandi trúar, kærleika og kristindóms.

Og því var eg meðfram að hugsa um þetta í sambandi við Reykjavík, að eg sá þar þó ýms önnur ljós — meðal mannanna, sem eg vona með guðs hjálp verði birta landsins og landsmanna. Ef til vill væri réttast af mér að segja lítið eða ekkert um Reykjavík. Um hana tala ýmsir, og hún á marga til að taka málstað hennar, ef á hana er hallað. Því það er full-kunnugt, að maðr á æfinlega á hættu að styggja einhvern, ef eitthvað er sagt,—og einnig, ef ekkert er sagt, — en líklega alla, ef allt væri sagt. Svo það verðr engin lýsing, sem eg gef hér, heldr sár-fá smá-atriði nefnd.

Því miðr er eg hræddr um, að aðkomumaðr, sem engan á að, finni til þess, hve lítið virðist gjört fyrir ferðamanninn í höfuðstaðnum. Gestgjafahúsin eða *hótelin* gjöra, mér vitanlega, ekkert til að afla sér gesta. Mér fannst þeim nærri tekið fálega og meðferðin naumast sem viðfelldnust. Ef Ísland á að verða ferðamanna-land í framtíðinni, þarf margt í því efni, sem hér er vikið að, gjörsamlega að breytast víðast á Íslandi.—Vitanlega er það smá-atriði, en ekki get eg samt gleymt því, af því það táknar ýmislegt fleira, að fyrst er eg kom um kvöldið að myndarlegu gestgjafahúsi, sem mér skilst myndarfólk ráði fyrir, fékk eg ekki að fara inn um götudyrnar, heldr var mér vísað, þrátt fyrir vinsamleg tilmæli um hið gagnstæða, á einhverjar aukadyr, er lágu inn í drykkjusal, sem eg hefi gjört mér að reglu að forðast. Eg hefði nærri eins vel viljað láta „setja mig inn" á öðrum stað sem þetta. Og það vakti eitthvert óyndi í mér, að því er húsnæðið snerti, sem er þó annars að ýmsu leyti gott. Og vafalaust vildi hlutaðeigandi fólk ekki gjöra hið allra minnsta rangt — og telr þetta líklega illa hótfyndni af mér. En það er ekki tilgangr

minn. Eg segi þetta ekki fyrir mig, heldr fyrir *það* og aðra, er líkt stendr á fyrir eftirleiðis.

það er svo margt smávegis ónumið enn, sem getr komið sér vel að þekkja skil á og láta fara vel úr hendi. Ekki man eg, hvað oft eg leitaðist við að komast inn á hinn eina og opinbera baðstað Reykvíkinga. En eg hitti svo á, að húsið var æfinlega harðlæst og maðrinn, sem gætti þess, fannst aldrei. Loks greiddi þó fyrrverandi baðhúsvörðr úr þeim vanda.—Engin rakarabúð var þá heldr til í Reykjavík, og er það harla einkennilegt fyrir jafn-fjölmennan og ,,fínan" bœ sem Reykjavík óneitanlega er, að því er snertir íbúa hennar. En það sýnir bezt, hve öllum smá-iðnaði er þar lítt sinnt og hve seint útlend þægindi festa þar fót. —þjóðfélag — eða bœjarfélag—, sem ekki gefr gaum hinu smáa, nær aldrei hinu háa framfara-takmarki.

Naumast getr bœjarstœðið í Reykjavík talizt verulega fallegt, ef borið er saman við hina mikilfenglegu náttúrufegrð Íslands á ýmsum stöðum. Húsaskipan er enn ekki sem reglulegust ; allar gangstéttir vantar og götur höfuðstaðarins eru í rauninni engu betri en hinir nýju heiðavegir, sem reyndar víða eru ágætir. Mikið hefir í seinni tíð verið byggt af húsum í Reykjavík ; en fremr eru hin járnklæddu hús, sem svo mikið ber á, oft ómáluðum, kuldaleg útlits, innan um bera, gróðrlausa grjóturð.

Rangt væri að segja, að ekki hafi verið unnið og byggt í Reykjavík, eftir því sem á Íslandi tíðkast. Framfarir eru þar miklar, eins og margt er þó óneitanlega ervitt heima. Bœrinn er í sannleika höfuðstaðr Íslands í öllum skilningi, þó smávegis mætti þar betr fara, stœrri og myndarlegri höfuðstaðr fyrir Ísland en mörg stórborg er í útlöndum, hlutfallslega við framfarir og ástand landanna. Reykjavík getr engan veginn heitið lítill bœr, heldr stór í jafn-fámennu landi sem Ísland er.—Ýmsar yngri byggingar í Reykjavík þola samanburð við margar slíkar byggingar í erlendum bœjum af líkri stœrð. Mörg urðin hefir þar verið gjörð að grœnni flöt og margr gleðilegr vottr um iðn og framför er augsýnilegr. Og höfnin

og útsýnið til ncrðvestrs þykir mér hvorttveggja ljómandi fagrt.

En bœrinn er of lítið prýddr. Austrvöllr, eini ,,skemmtigarðrinn'' innan bœjar, var allr þakinn blautu og ljótu útheyi allan þann tíma, sem eg sá hann. Og lítil prýði er að ,,póstunum'' í miðjum bœnum og öllum vatnsburðinum, ásamt fleiru þvílíku, á götunum. Bœrinn þarf nauðsynlega að eignast ,,vatnsverk'', er leiði vatn inn í hvert hús.

Og nú skal eg ekki draga það lengr að segja eitthvað um íbúana. Eg sagði, að manni gæti fundizt útlit sumra húsanna kuldalegt og landslag umhverfis hrjóstrugt. Hið gagnstœða á sér stað með fólkið. Eg fullyrði það hér, að betra og myndarlegra fólki hefi eg ekki mœtt meðal þjóðar vorrar en þar. Og hvergi hefi eg unað hag mínum betr meðal al-ókunnugs fólks. Eg gleymdi æfinlega hrolli, úrfelli og ýmsu öðru hinu ytra, sem mér fannst eitthvað ömurlegt, þegar eg var með fólkinu eða kom inn til þess. Hver öðrum höfðinglegri og híbýlaprúðari, gáfaðri og bróðurlegri —er ágrip af þeim vitnisburði, sem eg hlýt að gefa þeim, er eg kynntist þar. Í blöðum bœjarins má vitanlega sjá, að þar eru einstöku bjánar og óþokkar til. En eg held, að versta hliðin komi fram í hinum verri blöðum, sem þar hafa vanblessað fólkið. Aftr sá eg, að bœrinn var merkilega laus við slark og ýmsa ytri óreglu. Enda er meira táp í bindindisstarfseminni þar en nokkurri annarri hreyfing á öllu Íslandi. Eg sá þar varla ölvaðan mann, nema tvo eða þrjá úr hópi hinna yngri lærdómsmanna, er eitthvað langaði til að segja á einni bindindissamkomu, einmitt meðan eg var að tala fáein orð um ofdrykkju, — svo það gat vel hafa verið mér að kenna. Raunar getr manni stundum komið til hugar, að á Íslandi þurfi menn að hafa gengið á skóla af einhverri tegund og þanið sig út á einhverju menntunar-stafrofi til þess að verða í allri framkomu ímynd þess, sem menn eiga ekki að vera. Einn gáfaðr prestr á norðrlandi sagði eitt sinn við mig: ,,Hin öfuga skólamenntan vor er undirrót hinna andlegu nútíðar-meina vorra.''—Fleirum finnst eins. Eg heyrði skólamennina sjálfa ráðgjöra, að senda framvegis syni sína til Englands eða Ameríku til náms. Marg-oft

hefir aðal-blað þjóðarinnar, ,,Ísafold'', fyrir munn sinna gáfuðu ritstjóra, tekið þetta fram sérlega vel,—hið öfuga og ónýta menntunarhrafl, einhvern fróðleiks-upptíning, einhverja skynsemis-upplýsing, oft án samanhengis og stefnu, án þess að hinir andlegu eiginleikar mannsins, viljinn og tilfinningin, sé menntaðir og þeim beint á rétta leið. Ekki einungis höfuðið, heldr einnig hjartað, þarf menntunar með fyrir lífsstarf vort, en það hefir þjóð vor vanrœkt í seinni tíð og ef til vill ávallt.

Annað, sem er þessu náskylt, skal hér nefnt, því þar liggr ein aðal-meinauppspretta í stefnu og starfi þjóðar vorrar, og það er íslenzk blaðamennska. Hún er skyldgetin systir hinnar öfugu skólamenntunar. Fátt eða ekkert gjörir Íslandi meira ógagn en ill, ókristin, andlaus og stefnulaus blöð, þar sem sí og æ er verið að prédika ókosti og eigingirni einstaklinganna, þar sem málstaðr hins illa og ógætilega er varinn og vegsamaðr, og heimskan sú hörgabrúðr, sem—samkvæmt heiðindómsstefnunni—er blótuð. Pólitisk óöld, andleg eymd m. fl. er bein afleiðing af þessum ,,bakteríum'' í bókmennta- og þjóðfélagslífinu íslenzka. Það er þeim að kenna, að menn rífast með slíkri heift sem gjört er um hvert þarfamál, sem minnzt er á, og nálega öll framkvæmd lendir við það. Fyrir dáðríki koma deilur, fyrir þjóðrœkni þjóðdramb, fyrir trú trúgirni, fyrir traust tortryggni, fyrir einlægni uppgjörð, fyrir hag lands og þjóðar sérplœgni ; — smekk og dómgreind manna er spillt, réttlætis-tilfinningin deyfð, og rœgðir þeir menn, sem bezt vilja og mest vitið hafa.—Ísland og íslenzk blaðamennska eiga of marga Hœnsa-Þóra og of mikið af heybaggaillindum líkt og í sögu Þóris,—anda, sem mest hugsar um og ávallt segir um náunga sína og þörfustu menn landsins: ,,Brenni brenni Blund-Ketill inni.''

## Bandalags-pistlar.

Eftir séra Rúnólf Marteinsson.

### II.

Hvað eigum vér að segja um trúmálafundina í banda-

lögum vorum? Hafa þeir náð œskilegum þroska hjá oss? Erum vér ánœgðir með þá? Verða þeir að tilætluðum notum?

Fyrir þeim, sem þetta ritar, vakir það, að það sé eitthvað, sem þeir eigi að fœra oss, sem oss hafi enn ekki auðnazt að ná. Með því viljum vér ekki gjöra lítið úr því gagni, sem trúmálafundirnir hafa nú þegar unnið. Yngri og eldri hafa sjálfsagt haft mikið gagn af þeim. það munu margir samsinna með oss, sem tilheyra bandalögunum og hafa hvorki vanrœkt að sœkja fundi né heldr að taka eðlilegan þátt í félagsmálum. þar hefir kristilegr fróðleikr verið borinn á borð fyrir unga fólkið, sem sumir hafa fœrt sér í nyt og öllum hefði getað verið til uppbyggingar, ef allir hefði kunnað að meta hið góða, er að þeim var rétt.

þrátt fyrir þetta eiga trúmálafundir vorir eftir að taka umbótum.

Spurningin er: Hverjar eru þarfir þær, sem trúmálafundirnir eiga að fullnœgja? Umbœtrnar verða að miða í þá átt, að uppfylla þær betr.

þegar á þetta er litið, er ekki sjálfsagt, að það sé einhlítt að taka upp fyrirkomulag annarra; því annarra þarfir geta verið aðrar en vorar. Engu að síðr getum vér, ef til vill, af öðrum eitthvað lært í þessu tilliti, að svo miklu leyti, sem þarfir annarra eru hinar sömu sem vorar.

Vér viljum því með fám orðum benda á nokkrar af hinum ýmsu aðferðum, sem hafa verið notaðar í bandalögum eða öðrum kirkjulegum félögum unga fólksins.

Aðferðin, sem við er höfð í flestum bandalögum kirkjufélagsins, er sú, að hafa þá ekki að neinu leyti frábrugðna öðrum fundum, skemmtifundum og menntamálafundum, nema efninu. Á þeim hefir prestrinn flutt rœðu um eitthvert trúarlegt eða kirkjulegt efni, sögu kirkjunnar, biblíu-landafrœði, o. s. frv. Stundum hefir einhver annar en prestrinn flutt samskonar rœður. Stundum hafa fleiri rœður verið fluttar á sama fundinum. Auk þess hefir verið söngr, meiri eða minni, vanalega á hverjum fundi, fyrir utan sálminn í byrjun og fundarlok. Enn fremr hafa verið lesin eða flutt andleg kvæði

og samskonar sögur. Þetta hefir verið hið vanalega á fundum vorum. Í sumum félögum hefir fyrirkomulagið verið að einhverju dálitlu leyti breytt. Í bandalagi Garðar-safnaðar voru stundum umrœður um eitthvert praktiskt kirkjulegt efni. Í bandalagi St. Pálssafnaðar í Minneota hefir prestrinn flutt nokkurskonar fyrirlestra til biblíuskýringar. Í bandalagi Þingvalla-safnaðar (N.-D.) voru stundum æfiatriði sumra hinna merku manna, er biblían getr um, tekin til íhugunar. Var þá eitt slíkt efni valið fyrir hvern fund, en því skift niðr milli 3—4 rœðumanna, og var þá vanalega viðhaft kort til skýringar.

Það, sem helzt sýnist vera að þessu fyrirkomulagi, sem er almennast á trúmálafundum vorum, er það, að meðlimirnir almennt taka svo lítinn þátt í fundunum, og það, að biblían skipar ekki það sæti á þeim, sem oss finnst hún ætti.

Fyrirkomulagið á þessum fundum í samskonar félögum í reformeruðu kirkjudeildunum er þannig, að ákveðið efni er valið til íhugunar og einn valinn til að stýra þeim parti fundarins, sem rœðir sérstaklega um það efni ; en forseti félagsins stýrir fundinum að öðru leyti. Fundrinn er vanalega byrjaðr með söng ; svo er flutt bœn af einhverjum meðlim, stundum fleiri bœnir en ein. Þá er lesinn kafli úr biblíunni, sunginn sálmr og aftr bœnir. Meðan fundrinn stendr yfir eru margir fleiri sálmar sungnir, og hve nær sem fundarstjóra þykir við eiga eru bœnir fluttar. Þegar byrjað er á aðalefni fundarins, heldr fyrst sá, sem hefir verið valinn til að stýra, dálitla rœðu. Því næst eru almennar umrœður um efnið ; sumir halda rœður, sumir lesa vers úr biblíunni, sem viðkoma efninu, segja þá, ef til vill, fáein orð um leið. Kostrinn við þetta fyrirkomulag er sá, að fundirnir verða fjörugir og almenn huttaka í þeim mikil. Aftr á móti fœra þeir meðlimum sínum lítinn fróðleik og eru lítt menntandi.

Sjálfsagt fullnœgja þessir fundir þörfum hinna reformeruðu kirkjumanna ; en þarfir vorar eru að nokkru leyti aðrar, vegna þess að hinn kirkjulegi andi vor er talsvert annar og kristindóms-uppfrœðsla ungmennna vorra talsvert öðruvísi en þeirra. Það er því ekki til neins í hugsunarleysi að apa eftir

öðrum, að eins af því það gefst vel hjá þeim. Vér verðum ætíð að spyrja, hvort það samsvari *vorum* sérstöku þörfum.

Vér skulum nú minnast á fyrirkomulag það, sem almennt á sér stað á trúmálafundum hinna lútersku bandalaga í Bandaríkjunum. Í blaði allsherjar félagsins, *Luther League Review*, er allt af sérstök deild, er nefnist: ,,Luther League Topics". það eru efni, sem valin eru til umrœðu á trúmálafundum. þessi efni eru öll valin úr biblíunni.

það eru mismunandi aðferðir við það að íhuga og kynna sér biblíuna. Ein er sú, að athuga hinar ýmsu bœkr hennar, í röð eða ekki í röð, og taka fyrir hvern kapítula á eftir öðrum. Önnur er sú, sem nú tíðkast í sunnudagsskólunum, að taka ekki fyrir nema dálitla kafla, sundrslitna hvern frá öðrum, en þó í sögulegu samhengi, svo að þeir gefi all-góða hugmynd um innihald bókarinnar eða sögu tímabilsins, sem um er að rœða. þriðja aðferðin er sú, að taka fyrir sérstaka kafla til íhugunar án sögulegs samhengis, að eins vegna þess, að sú hugmynd, sem felst í köflunum, er nytsöm og vel fallin til að rœða um. þetta er fyrirkomulagið, sem á sér stað með efnavalið í félögum reformeruðu kirkjunnar. Og að nokkru leyti á þetta sama sér stað með þessi umrœðuefni hinna lútersku bandalaga. En sá er munrinn, að þessi síðasttöldu efni eru öll samhljóða hinu lúterska kirkjuári.

Til útskýringar hverjum kafla, sem þannnig er valinn til íhugunar, er ætíð einn dálkr í blaðinu. Svo eru þessar útskýringar prentaðar sérstaklega og seldar hinum ýmsu bandalögum, sem kaupa vanalega nóg handa öllum meðlimum sínum.

Sem sýnishorn setjum vér hér þýðing af einum slíkum útskýringarkafla. Efnið er: María frá Magdala; og er ætlað þeim fundinum, sem er næstr páskum. Fyrst eru, í sambandi við þetta aðalefni, valin efni í ritgjörðir, sem svo er ætlazt til að sé lesnar á fundinum. Ritgjörða-efnin eru þessi: *Æfisaga Maríu frá Magdala.* — *Samtal drottins vors við hana.* — *Hvernig konan getr þjónað Kristi.* — *Lexíur páskanna.*

Útskýringarnar, sem á eftir koma, er ætlazt til að sé

aðallega leiðbeiningar og bendingar um það, í hvaða átt samræðurnar eiga að stefna.

,,Takið til íhugunar eftirfylgjandi bendingar, sem byggðar eru á kaflanum, er valinn er oss til hugleiðingar (Jóh. 20, 11—18).

1. *María grét, þegar hún hefði átt að fagna.* Þannig er það fyrir oss. Ef hún hefði skilið, hvað það þýddi, að gráta þá, myndi hún ekki hafa grátið. Ekki heldr myndum vér gráta, ef vér sæjum sorgir vorar í því ljósi, sem guð sér þær. Hún var syrgjandi vegna þess, að andvana líkami meistarans var horfinn. En sá líkami varð lifandi aftr ; meistarinn hennar var ekki fjær henni, heldr miklu nær. Harmr vor út af hinum horfnu líkömum ástvina vorra myndi ekki vera eins óttalegr og hann einatt er, ef vér gætum séð þá í hinni dýrðlegu návist drottins. Það leið ekki á löngu, að hún lærði þann dýrmæta sannleika, að drottinn hennar var henni nálægr. Og það mun ekki heldr langt um líða þangað til vér einnig lærum að þekkja leyndardóma annars lífs og öðlumst réttan skilning á öllu því, sem kom fram við oss í þessu lífi. En á meðan það er ekki enn orðið skulum vér treysta hinum upprisna drottni, sem lét harm Maríu snúast í fögnuð.

2. *María sá engla í gröfinni.* Hvílík breyting á gröfinni ! Í því fyrrveranda heimkynni hins látna líkama birtust nú ódauðlegar verur úr eilífðinni. Manni finnst, að þessi sjón hefði átt að vera henni bending um atburð þann hinn mikla, er orðinn var. En þó reyndist það ekki svo. Í sorgum vorum erum vér einatt blindir fyrir öllu því, sem gæti huggað. Tárin fylla augun, svo þau sjá ekki englana, sem guð sendir til þess að hugga oss; og þótt þeir sé oss nálægir, getum vér ekki skilið þá nálægð. En hvað mikið var af hinu óvænta þennan páskadagsmorgun ! Allt óvæntr fögnuðr ! Hverjum getr í hug komið hið óvænta, sem opnast fyrir oss hinn mikla páskamorgun framtíðarinnar, þegar allar grafirnar skila aftur hinum dauðu, sem í þeim eru? Kom þú skjótt, drottinn Jesús.

3. *María lá ekki á fagnaðartíðindunum, sem hún hafði fengið.* Hún var fyrst allra til að sjá drottin upprisinn, og

hún er ekki heldr sein til að vitna um það. Hvernig er ástand þitt? Jesús hefir upprisið í hjarta þínu og komið þangað með líf í staðinn fyrir dauða. Hefir þú farið að segja öðrum frá því? Vér höfum fengið hinar góðu fréttir, og trúum þeim. Hvað höfum vér gjört til þess að segja þær þeim, sem aldrei hafa heyrt þær og nú sitja í sorgum vegna þess þeir hafa aldrei þekkt frelsarann, sem hefir sigrað syndina, dauðann, gröfina? Páskasagan bendir oss víða á ábyrgðarhluta vorn. Hann er upprisinn. Og hver einasta sál, sem hann dó og uppreis fyrir, hefir rétt til að vita um það. Hvað gjörum vér til þess að láta aðra menn um það vita?"

Á fundum, þar sem þessi efni eru tekin til íhugunar, syngr unga fólkið vanalega mikið af sálmum. Svo er bœnahald, biblíukafli lesinn, ritgjörðirnar út af efninu lesnar, rœða flutt af þeim, sem stýrir, almennar umrœður út af fundarefninu hafðar, ásamt fleiru.

Væri heppilegt fyrir oss að aðhyllast þetta eða eitthvert svipað fyrirkomulag? Myndi það samsvara þörfum vorum? Erum vér nógu þroskaðir í bandalags-félagskap vorum til þess að fara að viðhafa þessa aðferð? Myndi ekki fyrirkomulag eitthvað líkt þessu auka guðrœknina á fundum vorum og gjöra þá sannari *trúmálafundi* en þeir hafa verið? Myndi ekki þetta stuðla til þess, að biblían skipaði hið rétta sæti sitt á fundum vorum? Myndi ekki almenn hluttaka í fundinum verða meiri með þessu móti?

Vér viljum slá þessum bendingum fram, til umhugsunar fyrir leiðtoga bandalags-félagskaparins meðal vor. Nú sem stendr ríðr oss meira á því, að þau bandalög, sem hafa myndazt, nái þroska en á því að stofna ný. Og það eru trúmálafundirnir, sem þurfa að taka mestum framförum; því þeir eru hvað ófullkomnastir, en eru þó þeir, sem mest á ríðr.

---

Sálmrinn *Abide with me*, sem birtist í þessu „Sameiningar"-blaði, nýþýddr af hr. Jóni Runólfssyni, hefir áðr verið þýddr á íslenzku af séra Stefáni heitnum Thórarensen. Sú þýðing er í sálmabókinni frá 1886, nr. 443, og er það einn

hinna ágætustu sálma í þeirri bók. En bragarháttrinn er þar annar en frumsálmsins og sönglagið þar af leiðanda einnig annað; og er sá munr verulega tilfinnanlegr þeim öllum, sem kunnugir eru sálminum á enskri tungu. Úr þessu er hér bœtt með hinni nýju íslenzku þýðing. Nú má hér eftir syngja þennan stór-fræga sálm með sama lagi á íslenzku og ensku.

Í þýðing séra Stefáns vantar eitt vers—þriðja vers frumsálmsins, en hinsvegar er þar bœtt við einu versi — síðasta versinu, eða ef til vill réttara: tvö vers þar á íslenzku orkt út af efninu í síðasta versi enska sálmsins. Hr. Jón Runólfsson aftr á móti þræðir versin í frumsálminum nákvæmlega, og þótt hann sumsstaðar víki lítið eitt frá orðalagi hins enska höfundar, þá er þó þýðing hans mjög vönduð og getr alls ekki kallazt nein lausaþýðing.

Sálmrinn *Abide with me*, sem er einn hinna mestu uppáhalds-sálma allra ensku-talandi kirkjuflokka, var orktr af Henry Francis *Lyte*, presti í biskupakirkjunni á Englandi, árið 1847, mjög skömmu áðr en hann andaðist, 54 ára gamall, En þannig stóð á, þegar sálmrinn varð til: Heilsa prests var biluð, og eftir ráðlegging vina sinna réðst hann um haustið það ár í það að ferðast að heiman suðr að Miðjarðarhafi sér til heilsubótar. Hugboð hafði hann þó um það, að sú tilraun myndi verða árangrslaus. Áðr en hann lagði á stað flutti hann með mjög veikum burðum söfnuði sínum prédikan og kvaddi hann, auðheyrt í síðasta sinni. Eftir þá guðsþjónustu vék hann afsíðis og orkti sálminn, og afhenti svo handritið vinum sínum þegar sama kvöld, rétt áðr en hann sté á skip til burtfarar. Hann komst hindrunarlaust suðr, en andaðist í bœnum Nizza (Nice), fast við landamæri Frakklands og Ítalíu, 20. Nóv.

Lyte prestr var gœddr all-mikilli skáldskapargáfu og hefir látið eftir sig ýmsa ágæta sálma, en sálmrinn *Abide with me*, sem hefir fyrir texta bœnarorð hinna tveggja lærisveina Jesú á Emmaus-göngunni („Vertu hjá oss, því að kvölda tekr og á daginn líðr"), er sá af sálmum hans, sem lang-helzt hefir varpað kristilegum frægðarljóma yfir minning hans.

Fimm söfnuðir í Nýja-Íslandi (Gimli-söfn., Víðines-söfn., Árnes-s., Breiðuvíkr-s. og Fljótshlíðar-s. eða öðru nafni Geysis-s.) hafa sent séra Rúnólfi Marteinssyni prestsköllun, og hann hefir lofað þeim að gjörast fastr prestr þeirra, — þó ekki fyrr en með næsta nýári, því þá sex mánuði, sem eftir eru af þessu ári, hafði hann áðr skuldbundið sig til að þjóna söfnuðinum í þingvallanýlendu og Tjaldbúðarsöfnuði í Winnipeg.

---

Séra N. Steingrímr þorláksson er nú alfluttr með fjölskyldu sína frá Park River til Selkirk hér í Manitoba. Og samfögnum vér íslenzka söfnuðinum þar út af því að það fólk hefir fengið hann til sín og getr nú algjörlega notið þjónustu hans.

---

**Aldamót,** 9. ár, eru nýkomin út frá prentsmiðju „Lögbergs" í Winnipeg — urðu í þetta skifti fyrir ýmsar orsakir óvanalega síðbúin. þar í eru kvæði eftir séra Valdemar Briem og þýzka skáldið Karl Gerok (í þýðing séra Mattíasar Jokkumssonar), ritgjörðir og rœður eftir séra N. Steingrím þorláksson, séra Björn B. Jónsson, séra Jón Bjarnason, séra Jónas A. Sigurðsson og ritstjórann: séra Friðrik J. Bergmann. Bókmenntaþáttrinn („Undir linditrjánum") er nú með langlengsta móti. Frágangr ritsins er prýðilegr. Verð eins og áðr 50 cts. Til sölu hjá prestunum og fleirum sem fyrr.

---



„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Rúnólfr Marteinsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.